# Æfintýrid
af
# Selikó og Berissu
tilfallid árid 1727.

Snúid úr Frønsku máli á Islendsku
af
## Dr. Hallgrími Scheving.

En á Ljódmæli snúid
af
## Hallgrími Jónssyni 1840.

Nokkud aukid af Landaskipunarfrædinni, og þeim Fetisku trúarbrøgdum Sudurálfunnar, til frekari upplísingar fyrir fáfródari.

Videyar Klaustri.
1844.

Formálinn inniheldur bæn um fridsamlegt framhald einnrar veitslu, hverja Skáldskapar- og hersaungvagudinn ætlar sjálfur ad sitja, en skáldid á þar ad vera Skutilsveinn.

Rýman sjálf lýsir öllum þeim persónum sem til Sögunnar verda nefndar, ásamt landstödunni á Affríku Ströndum og þá verandi trúarbrögdum þar, samt Júídu Ríkisstjórn.

## Fyrsta Ríma.

Kom þú ofan yfir mig Ödun blóminn drósa
Eg er farin ad elska þig Uppheims ljóma Rósa.

2. Svo vid kunnum nædi ná Nesin saman leggja,
Jeg skal særa' og fæla frá Fjendur okkar beggja.

3. Burtu fælist ólund ill Amasemd og fýla Svoddan hyski vera vill, Vor þidlyndis gríla.

4. Burtu hroki hád og spott Hallist ykkar geingi,
Þid hafid aldrei gjört neitt gott Grundar Ísa meingi.

5. Deilur og sélska flæmd á braut Finnid bana stundir Þid hafid meir enn manneigt naut, Margann lagt hér undir.

6. Burt kviklyndi brixli stygd, Brædi' og öfundsýki
Þid hafid ætíd ást og trygd Amad í nádar ríki.

7. Aligd rógur íllt mannlast Eins i burtu skulid
Ykkar hefur hnútna kast Hrigg á margra bulid.

8. Burt þúngsinni þøgn og hrygd Prályndis med vana Þid hafid opt um óra bygd Arnad sumum bana.

9. Hafi sig nú fljótt á flakk Flæmt í útlegd skyldi Þ.tra heimska hrekkja pakk Hreint afmád eg vildi.

10. Orsøk þar til eg þá finn Ad sá flokkur rými Hér skulu berast ølfaung inn Adur enn lidur tími.

11. Kann ei lídast svoddan sveit Sida spilltra voma Þvi valfødurs herlegheit Híngad atl' ad koma.

12. En svo vyrdum veitslu spjøll Bond ei berist hédan Gódan bidjum godin øll Géfa frid á medan.

13. Valfadir þó vitsku ment Viti' eg litla geimi Til mín hefur søgu sendt Sunnan leingst úr heimi.

14. Hér á bord, ad meining mín Mun til rétta valid Saga þessi' og þundar vín Þá er allt upp talid.

15. Bardaga skvaldur ærid ýkt Ekki fram skal bera Þó mun efnid þánka ríkt Píkja fródum vera.

16. Fródur menta frømudur Franskra tabs úr skorð-um Herra Schevíng Hallgrímur Hana' útlagdi fordum.

17. Íslendsk vordin hún komst heim Hér á bedju grana Víst hefur frægum vitríng þeim Varid þókt í hana.

18. Fyrst ei vill til verda neinn Veigar Hárs fram bera Skipar hann *) eg Skutil Sveinn Skuli núna vera.

19. Hlýt eg þá vid herjans bord Honum í vil ad standa Sónar vín og søgunnar ord Saman til ad blanda.

---

*) Skáldskapargudinn Hár.

20. Þó sig reini þeinking mín Þá i mærð að letra
Hún er fyrir vyðrirs vin Verðug lángtum betra.

21. En fyrst eg var haldinn hér Helst óragur laungum
Því skal tjalda til sem er Týrs af mjaðar saungum.

22. Formálann að leingja litt Lýðum veit eg semur
Æfintýrsins efnið nýtt Eptir þetta kémur.

---

23. Krists frá burði birta menn, Byrjað Sagan gétur Seytján hundruð, tíu tvenn Talin sjø ár betur.

24. Ljóða byrjast efnið á Ekkju' er hét Darína Sonu átti þæga þrjá Pessi bauga lína.

25. Einn Gúberi eldri var En Telóvi valinn Yngstur sona seimgrundar Selikó er talinn.

26. Bræður tamir Tyrfíngum Týrs þar fíkur gneisti Báru' af øðrum Blámønnum Bæði vøxt og hreysti.

27. Lýsir sagan lífrum hjá Lífs í blóma stæði Dugnað fremur, dæma fá Dygð og hjarta gjæði.

28. Hlýra sinna Selikó Sagður var þó mestur Darína með dreingjum bjó Dagleg størf ei brestur.

29. Ellihrørnan hélt við beð Hrannar

bjarma línu Að svo gat hún einga téð Umsjón húsi sínu.

30. Búsljórn hvíldi' á bræðrunum Breitni meður sína Képptist hver við annan um Að elska móður sína.

31. Þar til lífsins andar að Allir burtu stukku Hún af hjarta bræðrum bað Blessunar og lukku.

32. Jafnt var ydn og orka stór Alfa drakans heiða Einn með boga fimur fór Fugla' og dýr að veiða.

33. Annar dýrkar akur blett Er við húsið liggur Þriðji matar þarfa stétt Þéna mátti dyggur.

34. Sá sem húsið annast á Og tilreiða matinu Þurfti líka svo um sjá Sína móður natinn.

35. Skiptu bræður sýslan sín Svo var einíng lægin Størsum þeim og þorna lín Þjónaði sinn hvern daginn.

36. Bjuggu frí við freka sorg Frú og bjóðar rita Hartnær Sabis hárri borg Høfuðstað Júída.

37. Er það land í Affríka Austur af Gullstrøndinni Sem að Géógraffía Gíneu nefna kynni.

38. Forðum lundar frægir seims Finnst

í søgum spjallad Þennann suðurhluta heims Hafi Bláland kallad.

39. Af Blámønnum eru þar Allmørg ríki setin Eins Júída voldug var Vídlend þó ei metin.

40. Upp Júída liggur land Ljóna fjøllin undir Þar óbundid stjórna stand stód um þessar mundir.

41. Þó ad legdi lýd í mund Landid margt ágjæti Þessa ríkis stjórn um stund Stód á veikum fæti.

42. Sjóli nefnast Mansa má Meingi því er stýrdi Sællísi þó honum hjá Hreisti og dugnad rýrdi.

43. Kvenna fjøldi Kóngsins þar Kjørum stjórnar rédi Hans og riku rádgjafar Ránglátir í gédi.

44. Frá því greinir efnid enn Ekru brjótum linna Í því landi meiga menn Margann høggorm finna.

45. Tvennt er kynid þeirra þó Þekkt af fródum mønnum Annad spillir ýta ró Eitrudum med tønnum.

46. Þessir gjøra margopt mein Mords í vinnu heitri Hverki verja hold né bein Høggorms varnar eitri.

47. Hitt er kynid trygda traust Tamid opt af þjódum Óskadvænt og eiturlaust Eins og børn med fljódum.

48. Þeir afgudir eru hvar Alfum fylgja randa Stærsti glæpur þykir þar Þessum ormum granda.

49. Meingi hjá í hverjum stad Hafa skjól og fædu Þeir eru til þess aldir ad Eida hinum skjædu.

50. Børn eru þessi veslings grei Volds- ug margra stada Hinna vinnur eitrid ei Á þá neitt til skada.

51. Ef ad vondir ormar hjá Ýtum ríra gaman Hinir sundur høggva þá Hundr- ad margir saman.

52. Stærsta orminn øldin þar Ædsta Gud sinn kéri Honum og til heidurs var Helgad eitt musteri.

53. Hans hid mikla musteri Sem meist- arar gjørdu slúra Fyrir innan sagt er sé Sabis borgar múra.

54. Høfud prestur mildíngs má Menn er helgan segja Linna þessum þjónkan tjá Prjár og dýrstu meyjar.

55. Ormsins dýrkun þótti þar Þjódar heill ad løgum Óspart honum offrad var Á midvikudøgum.

56. Sannleik þann og seigja ber Sífeldt ad heilagur Hjá blámønnum haldinn er Hverr midvikudagur.

57. Ein var trú hjá þeirri þjód Þó ad smátt á bæri Ad tvær verur ill og góð Eilífar til væri.

58. Og sú vonda vera þver Vald sem hrekkja geimi Skapad hefdi allt hvad er Illt í þessum heimi.

59. En af hinni gjørvalt gott Greint er komid væri Hvar um og þann helsta vott Høggormarnir bæri.

60. Garmar þessir guda kyns Góða mynd því bera Til ad eida hrekkjum hins Hermast skaptir vera.

61. Af því stóra orminn þann Ytar gud sinn kéru Ad sønn ímynd var haldinn hann Hinnar gódu veru.

62. Trúar greinir þessar þar Þjód sem rækja vitum Finnast nefndar Fetiskar Fleirstum nú í ritum.

63. Berissa var nistis nó Nefnd er dygd ei brestur En fadir hennar Faruchló Fetiks høfud prestur.

64. Hún af hverri brúdi bar Bædi vit og trygdir Af því voru ordlagdar Audar tródu dygdir.

65. Ødlíngurinn alltíð þar Andakt frambi strànga Máttu' ei heldur meyarnar Ur musterinu gánga.

66. Látum þjóna þau í ró Þessum Guði sínum Hlýt eg sinna Selikó Søgu kappa mínum.

67. Andakt medur ætíð hann Ættíngjum í hæginn Musterisins vitja vann Víst hvern helga daginn.

68. Ormi helgum offra réð Eins og þar til hlýðir Yngis fólki øðru með Allar rækti tíðir.

69. Øðrum framar vitur vann Vinsæld øðlast manna Berissa leit hýrt á hann Hvurr vill augun banna.

70. Hann og rennði hennar til Hýru sjónar neggja, Kveikti varmann ástar-yl Augna ráðið beggja.

71. Faðir hennar Faruhló fólksins høfuð-prestur Sjálfur unni Selikó Sem hans vinur bestur.

72.. Gat hann þar við amast ei Elli grár á kinnum Selikó þó kjæra mey Kyssti støku sinnum.

73. Kjærleiks føgur loga ljós Ljúft so bróg af gaman Fleins því týr og tvinna rós Trygðir bundu saman.

74. Afstarbønd ei bili þar Bædi hura gott um Allt sem heilagt haldid var Høfdu þau ad vottum.

75. Farúlhó med bragd óbist Bádum likt því unni Þar í ormsins vidurvist Visid stáls gaf runni.

76. Stód nú allt á einni vog Efla er þókti framan Næsta morgun átti og Ung ad vígja saman.

77. Þar mun koma þrádar slit Þúngt í giptíng nýa Því eg efnid frá þeim slit Framm til Arabía.

78. Þessu stóra þjódlandi Þau eru tak-mørk valin Hafid Rauda sagt er sé Sjór ad vestan talinn.

79. Asía sú minni má Marka nordur bøndin Enn þar næst ad austan þá Eru Persaløndin.

80. Austur takmørk eru léd Arabia ríki Feikna stórum fyrdi med Finnst hans valla líki.

81. Þenna strætum prúdum á Persa-botn kalladur Liggur nær í nordur sá Nokk-ud inn mjókkadur.

82. Indíahaf er í sudur Arabín skord-ur Hvar af fjørdur fyrr nefndur Fellur í løndin nordur.

83. Sudvestasta austur heims Er sú greind af stordum Og hjá mørgum send=ir seims Serkland kølluд fordum.

84. Dahómais døgling sá Dýrstu kappa rírdi Þessum heimsins aldri á Arabíu stírdi.

85. Borgir, lønd og bigdir réd Búdl=úng hreysti slíngur Lauga blódi manna med Mesti her = víkingur.

86. Ei skal meir um ødlíng þann Yrk=ja nú ad sinni Ut er sopid róms i rann Røgnis fyrsta minni.

---

Formálinn er hersaungur handa bardaga= og skáldskapar=gudinum (valfødur) enn Rýman hondlar um þá miklu herfør Dahómais til Affr=íku, hvar med hann lagdi undir sig allar aust=urstrandir þar, ásamt Júídu Róngs ríki, med frekustu blóds úthellíng, líka gétur um varnar tilraunir Sabis borgarmanna og útfallid.

## Onnur Ríma.

Fjodrum veifar fjors af yl Falur salur óma Sogn ad hreifa sveit í vil Sinna leifa vaknar til.

2. Held eg skérda hugar þrá Hnikars bikar tæma Spjóta' og sverda oddum á Inn mun verda borinn sá.

3. Týrs í góda horna hver Harda branda jódum Rekka blódi blandad er Býdur Odin þad svo mér.

4. Þann eg vanda þykist sjá Þjód muni bjóda vidur Hafinn branda heiptug þrá Hér skuli standa skutlum á.

5. Jóra hark og hildar gný Heyra geira njótar Hjørvar snarka holund í Hér mun stark á ferdum því.

6. Sig uppherdi sveitin fríd Sitji' og nitji rétti Þannin skérdi þrauta tíd Þó þad verdi guda stríd.

7. Trúid mér eg tek í akt Trúskaps hjú ad vera Því einherja þekki makt Þad framber sem til var lag:.

8. Sér þó kvæda kriddarinn Kjósa hrós ei meigi Þánka sæda framborin Finnst hér gjæda krapt aukinn.

9. Brag mæringar beri djarft Bord á orda mingt Umþeinkingar efni þarft Uppplýsingar klædt í skart.

10. Fyllir ama yndis naust Óljóst gólid kvæda Þó þródrar frama hreift raust Hnodad saman þánkalaust.

11. En sú vera voldugliq Vísum prís er géfur Hárs á kéra hálum stig Hjálpi mér ad standa mig.

12. Svo fyrir bordum sagna jeg Sjáist dável þjóna Mjøg frá skordum' muna torg Mál ad ordum søgu dreg.

---

**13. Mál so drýja dyrfist géd Dahómais gramur Arabía ríki réd Nara dýja glampa med.**

**14. Hann var besti herstjóri Hreysti**

treysta mátti Frægdar mesti fullhugi Fund=inn versti týranni.

15. Ur flæmt hafdi hari sá Hølda fjølda ríki Feikna krafdi fíngra snjá Fleirst=um lasdi skélfíng á.

16. Hørd ei stansar hér vid lund Hrad=ur ad nam draga Fjølda manns á mjald=urs grund Mords í dans vid hédins sprund.

17. Oteljandi herlid hraust Hara þar med fylgdi A svoldar bandid bidalaust Brunudu af sandi fleyin traust.

18. Veldid skérja sudur svam Sæ skæ=vada grúi Frek í berjast gjørdi gram Girnd ad herja' á Affríkam.

19. Fyrir austan Egiptó, ítar nítir knúdu Báru trausta birni þó Bagalaust um úsinn sjó.

20. Gilfa þá so gékk í vil Gliggur trigg=ur fylgdi Súda máv um síla = hil Sudur Blálands hafna til.

21. Fólk ad ládi brádt sig bar Brin=jadur kinja fjøldi Sinnis brádi sjóli hvar Setja nádi fylkíngar.

22. Vopna kínga grimmann gný Gram=ur frkamur vakti Blálendíngar bila þok Ben=rigninga skúrum í.

23. Hreisti ríkur hjørs vid þrá Herkmn

Serkja lýdur Arum líkur þókti þá Þar Affríku strøndum á.

24. Hvar framm vódu hildar knífs Hlínir brinjum klæddir Enginn stód á akri kífs Innlend þjód er niti lífs.

25. Lá helbardur, lerkadur Lýdur stríds í køsum So grimmhardur hernadur Heyrum vard ei kunnugur.

26. Herinn stáli þíngdur þó Pandist landid yfir Líkt og hála hreins um sjó Hleypt er báli' á synu mó.

27. Ad blódþistra bragna síd Brenndu, rændu drápu Þar til fyrsta fljót eitt vid Fleina kvistir áttu bid.

28. J tédum stad sig tilreiddu Tyrfíngs børfar grimmir Og so þadan ætludu Inná vada Júídu.

29. Innan torgar íta hvurr Ottast fljótt sinn bana Pessa sorgar søgu spur Sabisborgar konúngur.

30. Meingid þjád í sjóla sal Saman koma nádi Hirdir láda hélt um tal Hvad til ráda taka skal.

31. Nausti grana framm úr fleitt Fékk því rekka grúi Høggormana gódu greitt Gjøri manna saman í eitt.

32. Þeinktu menn ad þeir í brád Þjód

frá móðin dragi Það voru kvenna kølluð ráð Komu þau enn með sína dáð.

33. Lýða stjóra þóknast þar Þetta rétt staðfesta Fluttir voru fræníngar Framm til stóru móðunnar.

34. Meir enn berja mergð framm valt Múgur drjúgur orma Þori herja þegnar snjallt Þeir skulu verja ríkið allt.

35. Fljótsins bakka sliktist á Fræníngs væni skari Menn til hlakka frelsi fá Fyrir þakka kóngi má.

36. Sjaldan fagurt lukku = ljós Leingi meingi gleður Kom (sem bragur birti drós) Brúðkaups dagur Selikós.

37. Því mun tálma þó um sinn Það sem að vill bera Hildar sálma hljómurinn Hvar við jálma bjørgin stinn.

38. Síst uppnæmu Serkirner — Sér að verja hauður — Þeinktu sæmi senn ei verr Sabis — kjæmi — borgar her.

39. Vonuðu ríkið verja frekt Visir físa mundi Girnd því slíka þeir hafa þekkt Það var líka náttúrlegt.

40. Manna hvar þeir mest vona Má þar sjá til furðu Heilann skara Høggorma Hins vegar við móðuna.

41. Arabía sjóli sá Senn við menn ei

neina Benja býa eingjum á Orustu nýa þarf ad há.

42. Máls af tindi mátti lid Meiníng hreina fánga Skjøldúng findist skjót unnid Skridkvikindi berjast vid.

43. Yfir módu sídan svam Síklíng mikli þegar Búinn gódum hildar ham Hrausta þjódin fylgdi gram.

44. Víf á grana fljóti frá Fóru þórar branda Hjálpar vana hjuggu þá Høggormana nidur í strá.

45. Gudir þeir sem áttu enn Ogna gagn ad vinna Daudir leiri lutu senn Lángtum fleiri' enn konúngs menn.

46. Eiturlausa linna þá Lýtur strídur Serkja Drepna kaus til fædu sá Fituhnaus var skrokkum á.

47. Þókti kátu krásin góð Kóngi' og meingi stirjar Medur hlátur strax þar stód Steiktu' og átu þá vid glód.

48. Eptir slánga slátur tíd Slíngir hrínga njótar Ogna stránga stála = hríd Stofnudu ránga borgar lýd.

49. Heima gramur hjørs vid þrá Hug og dug því skorti Varnir framar vill ei tjá Vodanum sama kvída má.

50. Þegar njóla faldi frón Flúdi' ad

lúdu setri Mansa sjóli' á súda = ljón Svipt= ur skjóli' og maktar trón.

51. Skjøldúng fylgdi fátt af drótt Framm á glamma strindi Kári mildi knátt í þrótt Knørinn skyldi' og landid fljótt.

52. Einni gram ad eyu bar Ærid fjærri landi Pángad kvam af kadla mar Kreinkt= ur ama faldist þar.

53. Pá skal finna þjóda gram Par frá Arabía Hvurr vid stinna stála glam Stund= adi vinna Júídam.

54. Inná landid einka fljótt Æsir ræs= ir herinn Heiptug branda hríd frá drótt Hreif ad vanda líf og þrótt.

55. Eingu vægja víkingar Veldis feldu meingi Fékk ad plægja fálu mar Føllnu hræja lanirnar.

56. Heiptar gjarnir grádugt tjón Gjørdu stærdar meingi Dauda varnir dvína sjón Dreyra tjarnir huldu frón.

57. Undir orga bjørgin blá Beljan hel= jar vidur Mikil sorgar sjón var þá Sab= is borgar múrum hjá.

58. Borgarhlidum helstu vørn Heima beimar sýndu En komu lidid kífs í tjørn Kvistadi nidur landsins børn.

59. Sárum úr þar blód framm braust,

Baud nú hauðurs lýðum Innan múra her-lið hraust Hildar skúra vægðarlaust.

60. Fólks ógrinni fyrir var Frægðar nægð er missti Þá í minni margur bar Mergð sem inni félli þar.

61. Strætin duldi døkkur nár Drjúgur hrúgum saman Styrjar þuldi støkkur ljár Staðinn huldi møkkur blár.

62. Borgin skjálfa þókti þar Poldi foldin dýnki Mílu hálfa vaðin var Vel í kálfa benja mar.

63. Við fjørgalla veðrin stinn Var af hara meingi Staðurinn allur inntekinn Og stráfallinn lýðurinn.

64. Gullið, tróninn, gérsemar Gékk að rekka mundum Setst á tróninn sjóli þar Sigurtóninn hvellur var.

65. Virða rauðum var af ná Vøllur allur þakinn Hilmir bauð að høggva þá Hansa dauðu búkum frá.

66. Dauðra lýða høfuð hann Hátt og lágt uppfesti Sér til hlýða helst það fann Høllina prýða þar með vann.

67. Hersins flokkar harðlindu Hrundir mundar elda — Meydóms þokka prúð-guðu — Par samt nokkrar hertóku.

68. Eðalsteina strønd hverja Stillir friðlu

kjøri Þvínguð meini þánkanna Þeirra ein var Berissa.

69. Geirs þá hríðin grimdarlig Grandaði landsins meingi Nokkrir flýðu' og fólu sig Fyrðtir blíðu grunar mig.

70. Þeir í festu fylsnum ró Fjær og nær við staðinn Hverra mestur hermist þó Herra prestur Farúlhó.

71. Selikó með hlýrum hans Heljar elið stránga Svipti ró og fjárins fans Flóttinn dróg af allann stans.

72. Sér á herðum høfðu þeir Hljóðir móður sína Greið var ferð um grænann reir Gleði skérðum hrós ef deyr.

73. Flótta stund var løgð í lóg Laungum gángi meður Komust undan útá skóg Örva lundar dyggvir nóg.

74. Hlaup þá reisu rénuðu Runnar brunna mána Í bjargarleysi banvænu Bygðu hreisi Darínu.

75. Handa røðuls hrund elfa Hvílu bæli laga Mjúkt af tøðu móanna, Mosa' og bløðum eikanna.

76. Síst af ætu fékkst þar fleir Enn fáein smáleg epli Þar að gjætur gáfu tveir Gró'u rætur jurta þeir.

77. Einn hjá móður sinni sat Svángur

lánga daga Hinir ódins ynnu sat Eptir tródu róta mat.

78. Skeiti boga vanta vann Víst og flest hvad þurfti Sýnars loga freir hverr fann Fjørs nær toga gjøreiddann.

79. Frekur kvídi frændur skar Fátt því mátti gledja Selikó strída í sinni bar Sorg fyrir hlýdi gullreimar.

80. Leiddist bidin brædrum hjá Borg med sorg réd hitta Leitadi ydin auds ad gná Eptir lidna daga þrjá.

81. Margt er ángur manna kyns Mjøg forløgum bundid Med árángur mótgángsins Margur gángur forgésins.

---

Fyrst lýsir skáldid søknudi, útaf snøgglegu hvarfi bragar gudsins úr ljóda veitslunni, þar eptir seigir frá skýnandi vagni, sem dreigin af einum svan, leid nidur frá skýunum, þar í voru tvær gydjur íklæddar miklum geislandi ljóma, en þó svo ólíkar sem Venus og Bellona géta nokkurntíma útmálast, vid hverja sjón, bragsmidurinn, vard mjøg frá sér numinn, en vegna þess, ad nú hóst sorgar- og nærri bana-efni, lét Bellona fyrst lítid á sér bera, en Venus —

inntekin af ástum Persónauna í søgunni — taladi þýdlega til skáldsins og seigir hvarfyrir Odinn hafi burt farid, ásamt lýsir vanmætti bragsmidsins, til ad yrkja verduglega, útaf fyrirtekinni historíu, því líkar Virgilíusar, eda Ovidii hefdu átt ad taka slíkt fyrir sig, hún gétur um, ad Ovidíus hafi — med miklum sálar háleik — samid kvædi útaf Píramus og Tispe, í líku tilfelli, en einginn af himinbúum hafi kvædid numid, utan þær bádar, og seigir skáldinu skyldu á hendur, ad snúa því úr latínunni á Islendsk ljódmæli, og þylur kvædid allt áfram, sem skáldid setur í þennan mannsaung, og þann 4da. Ríman høndlar um sorgir Selikós, hans mikla kjærleik og edalsinni, samt neidar kjør módir hans og brædra, og loksins hver hans úrrædi urdu.

## Þridja Ríma.

Veitslu spjøllum verda lýsa versin stirdu
Herjan sem var hjá oss fordum Hvarf nú und-
an drykkju bordum.

2. Blisum hvarma breytti' eg vídt um blómgad haudur Skémtunar af skorti gjæda Skýja veldis eins til hæda.

3. Sólar geislum vafinn vagn og vatna

thru Leit eg undan skýja skörum Skunda til mín rétt óvörum.

4. Vaninn Svanur vagninn dróg á vinda hjólum Fagnadar med fagurgala Frekar þó enn má um tala.

5. Líkt sem milli heims og helju holdleg sképna Megnadi' eg síst hitt máttar loppna Munninn rædu til ad opna.

6. Ekki heldur holds af fjötrum haldinn gat eg Mínar sporum fært úr sætur, frábær var svo glansinn mætur.

7. Gégnum bjartar geisla bylgjur Guda ljómi — Skein af audar eyum tveimur Aldrei slíkar fæddi heimur.

8. Sýn á hverjum sat þar stól med sómann tignar Í ljómandi ljósa vagni Líkt og sólir geisla magni.

9. Líkamans eg lítid vissʼ af leidri kreppu Sálin var sem vydjum sloppin Væri frá og laus vid kroppinn.

10. Eins og hún í himinbúa hópi raunar Verid hefdi, og ætti einast Umgángast, og verda seinast.

11. Mikid hafdi' eg metid heimsins menja reinur Andinn meir þó hné ad hinu Himinbúa kvennfólkinu.

12. Mjøg ólíkar mér þær sýnduſt menja brekkur Eingla sem og ára flokkar Eins og herma fljódin okkar.

13. Þar sem gydjur geiſla ſtrjáli glæſtar sátu Önnur þeirra — vel hvad vitum — Var blýgrá ad yfirlitum.

14. Fýlu svipur fólſku géd og frekt þurr-lyndi Mjøg var bert á menja grundu Medur áſtar ſnaudri lundu.

15. Skémtan hafdi hún' anſtygd á, en áſt-um hatur Gladdiſt meſt af grimdar hótum Er gégnum bora þjód med ſpjótum.

16. Leidt er henni líf sem heilſa' og lukka þénar Ann þeim helſt er hel ad brunar Hver-jum þó án medaumkvunar.

17. Morbus hét einn maktar herra mikid ſtrángur Honum kénnd var hún af meingi Heita mátt' hann vid henni geingi.

18. Bellóna hét náda nauma niptin veiga Hinni þrúdi lóna loga Lýſa færſtir mundu voga.

19. Gledi' og blídu geiſlar ſkinu gulls af nønnu Líkt og fagur jémi ſunnu Leiptrar inn-um glerin þunnu.

20 Elſkulegaſt áſtar hjarta úti vaungum Augnavik og varir kríngum Vørmum lýſti til-finníngum.

21. Eins og heimsins ástar neistar allra kinda Saman þar í einum anda Eyu hildi gullinbanda.

22. Venus heitir gydjan glæsta glød í sinni Fleirstir herma fródir munnar Fædd af lísi náttúrunnar.

23. Allur vard nú andi minn í einum hita Máls þá ørfar flugu fljótar Fram til mín af vørum snótar.

24. Vid mig sagdi' hún! vertu hress og vær í skapi Odinn þó sé hédan hlaupinn Honum þótti vanta' í staupin.

25. Protin vóru efnin øll sem áttu vid hann Hersaungvarnir herja-fødur Haga líkt og baulum tødur.

26. Pegar ást og ángri blandad er í staupin A dyr mun ása Drottinn hlaupa Dýrt vill hann ei svoddan kaupa.

27. Pú ert ei heldur þar til fær á þundar skálir — Hyggnum til ad svala sálum — Selikós ad blanda málum.

28. Ættu' af þessu efni slíkir yrkja brægi Eins og fordum Ovidíus Eda frægur Virgilíus.

29. Sá fyrr nefndi sálar háleik sanna medur Pýramus og Tyspe, tjádi Tilfellin og ljód af skrádi.

30. Eínginn nam þad ódar smid á efri ládum Utan vid sem vid þig rædum Vandi samt þó fylgir kvædum.

31. Lýsir bragur latínunnar lyst óríngu Dæmdur varstu' af valdi þúngu Venda í ljód á þína túngu.

32. Láttu sjá og lær þar af ad laga brægi Dulid skal þér efnid eigi Er þad rétt sem fram eg seigi.

33. Vid þann múr sem minda nam hin maktar ríka Babilónar — synda seka — Semiramis losta freka.

34. Tveir Borgarar Timbur hús — med tvinna eyum — Áttu sér — og seim ad dreig=inn — Sitt vid múrin hveru meigin.

35 Önnur hjónin áttu son í æsku blóma Drjúgum vaxinn dygda frama Dóttir hin, á aldri sama.

36. Hann Pýramus, hét — enn Tispe hrundin seima Laungum barna léku gaman Ljúfar ástir bundu saman.

37. Ærnum þroska elskan medur aldrei nádi Tauga seig í tryggu gédi Trúlofudust! enn hvad skédi.

38. Elskudu hjónin børnin blíd í besta máta Par til ástar úngann hita Alvarlega feingu vita.

39. Þá fór eins og køldum klaka kasti lýd- ir Ofaní heita ólíu sudu Yfir báli kapp- tendrudu.

40. Gaus úr vørmum gjædsku ofni gneist- um lýkur Hryggdum blandinn heipta reikur Hvar vid endti barna leikur.

41. Fyrirbudu foreldrarnir framar bádum Ástar møk um æfi tídir Ella refsíng hørd á strídir.

42. Innilokud eptir þad sem adrir fángar Voru þau í vøktun strángri Varin gledi mett- ud ángri.

43. Þá fór líkt og þegar elfa þreingsla kénndi Hægt af runninn høllu landi Hardara beljar óstødvandi.

44. Hvurki máttu sjón eda svørum saman koma Fundu þó med tíd og tíma Tendrast framar ástar brýma.

45. Fyrr áminnsti múrinn var í millum húsa Sundur sprúngin svo til slísa Sá í gégnum rifu þvísa.

46. Þad var svølun þjádu gédi þeirra beggja Vid þá rifu laungum liggja Lýdir þegar síst ad hyggja.

47. Piktin olli þau ei gátu þeim svo nægji Skotid svørum saman feigin Sitt var múrsins hveru meigin.

48. Kúpídus þó kunni mørgu koma skeiti Ségnum þessa glyrnu ljóta Er gékk þeim inn til hjarta róta.

49. Eitt sinn var þar einginn hjá þeim innan húsa Því nam ástin fljótt þau fýsa Fagurt láta samtal rísa.

50. Endurnýad tryzda talid tóku flétta Þar med — øldin þegar sátta Þyggur værdir innan gátta.

51. Skyldu' í leini lædast út um ligna grýmu Þángad sem ei óttast amann Eik hjá stórri koma saman.

52. Nærsta bída mannsaungs má ad mæla fremur Þann um reisu þrauta tíma Því nú byrjast verdur Ríma.

---

53. Selikó leitar selju grátinn sjóar funa Milli daudra lýda lana Líka gégnum blódstraumana.

54. Blód í kálfa vída storkin virdá dreyra Húsum í og innan múra Erfid gjørdist leitin súra.

55. Engar hættur hræddist þar né heipt óvina Skeytti lítid lífi sínu Leitadi frekt ad vísi sínu.

56. Í fimm daga lét ei linna leit um

stadinn Forgéfins og furdu módur Fann því sína barma hljódur.

57. Sárar féll í sorgir halur sviptur yndi Mjøg adþreyngdi mæddum anda Megnadi traudt á fætur standa.

58. Lidid sumar líka vetrar lýsti komu Fallinn prýdi fagur lima Fékk ei skylt ad brædra kima.

59. Inní skóginu þar sem þreingri og þikkri var hann Módur sína brædur báru Bjuggu' um líkt og faung til váru.

60. Lifdu þar vid kulda krøm og kval- ar húngur Selíkós vard sorga streingur Sár því meir sem vardi leingur.

61. Aungvu sinnti, sig á fætur síst nam draga Brædur hans ad bæta trega Báru sig þó merkilega.

62. Þannig fóru þeir ad benda þundi stakka Hann á fætur helst þad lokkar Horfd' á þarna er módir okkar.

63. Leindi' ei ástin laufa baldurs ljúfa sinni Øllu því sem orka kunni Ad nam hlinna kéllíngunni.

64. Lydu tímar til þess hardna tóku þrautir Framar ekkért fékkst til matar Fjølgar hitt, sem lífi glatar.

65. Selíkó nær sá nú eymdir sinnar

móbir Heimti' á eintal brædur báda Bad þá sjá hvad er til ráda.

66. Til ad bjarga módur minnar mæta lífi Sem og ykkar víst án vafa Vil eg skulid rád mín hafa.

67. Præla kaupmenn þrasa hér vid þrumu linda Nýkomnir frá nordurløndum Nægd er hafa gulls í høndum.

68. Annar med mér strax til stranda, stýri gaungu Hugnast mér ad heita fángi Hafid mig þar á bodángi.

69. Seljid mig þeim best vill borga brúkid sídan Verdid handa minni módur Mun þad ykkur fordi gódur.

70. Hrygdust barmar hans vid tal, og heldur vilja Bæti kjørin bitur helja Enn bródur sinn í þrældóm selja.

71. Selíkó lítid sinnti bænum sinna hlýra Tafarlaust ad túni þara Til sig bjó med gledi fara.

72. Thelovi þó tregur næsta tærir báda Fylgdi søku fram til búda Fann ad máli rekka prúda.

73. Dahómais hylmir hafdi høndlun Franskra Par innleidt og einnig Enskra Eins og fleiri nordur lendskra.

74. Keiptú þeir að fylkir fánga furðu marga Linna feingu týrar torga Tala við hann innan borgar.

75. Thelovi sinn Brøgnum barma bauð til sølu Loks kom einn sem frægann fali Fyrir rétta hundrað dali.

76. Vildu bræður velta frekt um vitsku eingi Hlaðnir meður hugraun stránga Hvurt þeir skuli' að þessu gánga.

77. Á sømu stundu hraud sér hlið að heyrnar bergi Lúður hljóð, sem undrum orgar Innan múra Sabisborgar.

78. Hrópari einn þar eptir reið frá øðlíngs høllu Meður hljóðum horku snjøll-um Hrópar svo á strætum øllum.

79. Drottnari heimsins Dahómais døgl-íng tjáður Fjøgur hundruð lofar lóðum Lýð af brendum rýnar glóðum.

80. Hvurjum sem að sér þann færi synda gaurinn Sem í nótt — þá sætt um dúri — Sjóla var í kvenna búri.

81. Og ekki fyrr enn undir dag, þar út nam laumast Þó vorninn hafi vondum amað Vaktin gat hann ei handsamað.

82. Sem nú heyrdi Selikó að svoddan andi Heitið var þeim hjørfa rjóði Hreldum. nædi glæpa skrjóði.

83. Vid Thelova týrinn bauga talar þannig Slíkt er handa módur minni Meir enn nóg í hérvistinni.

84. Summa þessi, sem nú býdur fendir laga Er þó fordi ærid nægur Ykkar þriggja lífs nm dægur.

85. Jeg vil vera sá hinn seki seldur heli Þú skalt runnur bráins bóla Binda mig og færa Sjóla.

86. Seig þú hafir sofandi mig svona fángad Til ad heidra mildíng meingis Medur skyldu hlýdni geingis.

87. Thelóvi sem føgnud feldi fylltist harmi Sagdist ei ósekan barma Selja fram á heljar arma.

88. Undanfæris ei gafst von þó um þad kveini Selikó býtir blossa rýnar Binda lætur hendur sínar.

89. Lét svo fánginn flytja sig til fylkirs hallar Bodin fóru fyrir stillir Fundinn væri meigja spillir.

90. Þeingill ekki þar um frétta þurfti tvisvar Haldin þúngri heiptar kveisu Heimtadi runna tjarnar eysu.

91. Lofdúng vild' ei líta bundinn laufa reynir Hinn med þúngum, hugar pínum Hlaut ad skýla barma sínum.

92. Með Thelóvi ræðu senda reiðum hara „Hér kom eg með“! gjætir geira Gat þá ekki talað meira.

93. Svarið greip nú Selikó og fjóla tjáði Saka dólgur er eg yðar Ei að heldur biðst þó friðar.

94. Þessi maður minn er bróðir mig sofandi Fann í dag, á fjølners kvendi Fáng=aði batt og híngað vendi.

95. Hlýðni og vyrðíng við þín boð hans var umhyggja Undir høfuð ei nam leggja Uthrópanir þinna seggja.

96. Greiddú honum gjaldið strax er gjørðir lofa Tregðulaust án táls og vafa Til þess mun hann unnið hafa.

97. Hylmir lætur, hundruð fjøgur hafnar funa Lóð, afhenda hyrði sleyna Hann við=tók þó kénndi meina.

98. Angri kvalinn hraðt svo hljóp úr Hilmirs ranni Viss um barmann líf þó linni Lýta framar aldrei kynni.

99. Særði hugann Selikó hann svo við skildi Og hans dauðinn kvala kaldi Keyptur var með þessu gjaldi.

100. Þannig marga særir sorg um sinnu

slódir Líka gledi tækar tídir Til ad hugga fást um sídir.

---

Mannsaunguriun er framhald latínsku historíunnar í þeim þridja, sem og svo endar æfintýrid af Píramus og Tispe. Rýman gétur um hordustu reynslur, og sýnilegasta lífsháska, Selikó og Berissu, þeirra dygd og stodugłyndi, samt óvænta frelsun — og mestu nád Dahómais kóngs.

## Fjórda Ríma.

Mannsaungs drýja mál eg vil Mærdar list upp nýja Píramy og Tispu til Tekur historía.

2. Rædu beggja røkkrid fól Ró þó nauma feingi Innan veggja grýma gól Galdur drauma meingi.

3. Lánga bidin þeigi þeim Pægdir skárstar sendi Pvi mjøg ydinn hyggju heim Hýrinn ástar brenndi.

4. Reikar hjólid hyggju villt Hvíld ei parid sinna Eikar skjólid, skugga fyllt Skyldi snarast finna.

5. Þessi tjáda eikin ein Epla blóma

hvítum Stód á ládi hladin hrein Hér med sóma nýtum.

6. Leingi bída, boda súr Breiskri sálu kunni Tíspe sídan arkar út Undan stála runni.

7. Eikar gánga gjørdi til Géts í vidjum Þeigji Hrædslu stránga hrings þó bil Hlaut á midjum veigi.

8. Þvert á leid fyri lynda hrund Ljón — frá drápi nauta — hljóp eitt skeid um haudnu grund Hamladi rápi þrauta.

9. Kirtlinum fleigdi' á haudrid hreint Hrædslu blakad kvendi Gaungu teigdi sveif ó=seint Svo til baka vendi.

10. Upp í topp á einu tré Uns ad linni tjónid Noktum kroppi klifradi. Kyrtilinn finn=ur ljónid.

11. Kyrtil farsa víssins vann — Vott hvad sýni tjónsins — Unda Tarfa røst er rann Raud um trýni ljónsins.

12. Drósar feldur dreir rødinn Dvald' um gatna reita Ljónid heldur áfram enn Eptir vatni leita.

13. Huxar víra hrundir sér Hvíld svo taka leingi Þar til dýrid ólma er Um til baka geingid.

14. Dýrid krusi hreins um haf Hríngs og

bydi þilja Pýramusi eins vill af Efnid lídur skilja.

15. Viss' ei dreingur drósar til Dvøl þvi mat í leynum Ut svo geíngur um þad bil Er hún sat í greinum.

16. Hnikars eld í hauka slá Hafdi rýta bjódur Stefnu heldur ørdugt á Epla — hvíta — módur.

17. Hríngs ei ríst úr huga gékk Hjarta kjær sem lysti Hvurn hann kvist í fáng er fékk Fadmadi, nær og kissti.

18. Astin varma klæda kvist Knúdi ferdum hrada Par til harma hretid bist Honum gérdi skada.

19. Hrugners gnøda hyrdir nú Hitti kirtil vífsins Blódi rodinn sjónin sú Sældir mirdti lífsins.

20. Pílan stíngur hrygda heit Hreidur gamma børin Par í kríngum líka leit Ljóna hramma-førin.

21. Grundud hjartans orda ord Ordid tjón án vafa Mundu bjarta borda skord Bordad ljónin hafa.

22. Sorgin fyrrti føgnud ønd Følnudu bleik-ar kinnar Vífsins kirtil hreif í hønd Og hljóp til eikarinnar.

23. Þarna lenda loksins vann Lauka þrá=inn kjæri Vildi enda heitid hann Hún þó dáin væri.

24. Sú ofþúnga særdi pín Sverda týr umgétinn Vífid únga vegna sín Vær' af dýr=um jetin.

25. Strángann sorga stífid kýf Stíla dóm=inn skyldi Medur borga lífi líf Lundur Skjóma vildi.

26. Vid þá hvítu blóma bjørk Byrtu rastar vidur Senn ónýtu sálar ørk Sinni kast=ar nidur.

27. Fárid stinna þróar þol Prautum brinna megnum Sára linna hjó á hol Hjartad inní gégnum.

28. Járnadi skýum ólmur á Unda straum=ur raudi Arnadi fríun sorga sá Saka naum=ur daudi.

29. Enn í trénu Tíspe sá Til ei grand hvad skédi Hrædslan rénud þókti þá Því upp standa rédi.

30. Reikar linna beda bil Blinds um lúa kvendi Eikarinnar tédu til Teinum skúa vendi.

31. So bar ad til elskugans Ástin togar brúdi Pá opnada hjartad hans Hinnsta boga spúdi.

32. Stemdi undu endad líf Orsa lundur

svinni, greipti mundu klóta kníf Kirtilinn und-ir hinni.

33. Lífsins tjóni sauma sól Sá hvad valda mundi Stædi' af Ljóni' og klénum kjól Kvølin skjalda þundi.

34. „Mál so tónar hringa hæd Harms af „kýsi sauna O! hvad ljón þid erud skjæd Ást „og lísi manna.

35. „Þó tildri sjón um svidris mey Sist „uppspora varnir Mildari ljónum erud ei Okk-„ur foreldrarnir.

36. „Verdur þikkja þar vid spørd Pægd ad „lokkar mundum Gat ei ykkar heiptin hørd „Hamlad okkar fundum.

37. „Heyrid ljón og heyrid menn Heyrid „fedur, mædur Heyrid frón og himininn Hjart-„ans gledi rædur.

38. „Nú er ángur okkar stillt Ástar skál af „rennum Nú eru fánga fjøtrin spillt Fadmløg „sálar kénnum.

39. „Nú ad stilltum hugarhrekk Hvílum „frí vid aman Okkur gilltum blóds á bekk „Brandur vígi saman.

40. „Litt' á hifinn, higg ad jørd Hlýrn-„ers rós ad gádu Stjørnur bif og bjørgin hørd „Bjørkin ljós þad sjádu.

41. „Helgir vottar verid ad Voru trygda

„kandi Heyrnar pottar hyrdi þad Heims á „stygda landi".

42. Ekkért framar ord hún kvad Annars vegna þagdi Og med sama sára nad Sig í gégnum lagdi.

43. Stjørnu grana grýtt' á váng Géds med varma taman Þeim andvana féll í fáng Fléttadi arma saman.

44. Med þeim høgum hrínga brík Heljan bregst ad rama Í fadmløgum fundin lík Feingu legstad sama.

45. Eikin bjørt er ástarfund Yfir mændi raudum Vard alsvørt á sømu stund Sem út sprændi daudum.

46. Hrygda skarti skrýdd hún var — Skatn-ar undur heyri — Allan svartann ávørt bar Upp frá stundu þeirri.

47. Ovidius ekki kvad Æfintýrid fremur Mannsaung sný eg endíng ad Efnid dýra kémur.

---

48. Var í hófi greina gøll Géd ónaud-uglega Þar Thelóvi hljóp úr høll Hladinn aud og trega.

49. Séliko — hljódur herma skal Horna

blandid grana — Bundinn stód í sjóla sal Sinn þreygjandi bana.

50. Skipar fángann þeingill þá Prælar leida vildi Kvala þángad eingid á Er hann deyda skyldi.

51. Bodum hildíngs hlýdni tér Heiptug øldin káta Burt svo fylgdi vigra ver Vopnadur fjøldi dáta.

52. Skyldi brenna bauga rjód Budlúng frá er krafdi Jøtna sennu líka lód Leigid þá er hafdi.

53. Grysjur tvær þá grafa lét Gilsi sára reidur Milli nær var fjøgur fet Folt=ar nári breidur.

54. Ætti bauga bjørk og hal Brenna sitt í hverri Kjærleiks spaug þar kulna skal Kvøl ei hittist verri.

55. Nokkur kvendi þángad þá Pvert of dika gøtum Báru hendi hraustar á Hitad bik í føtum.

56. Meir svo hrelli hefndin kvik Hels vid leikinn sjedann Á þau hellist ofan bik Eldurinn steiki nedan.

57. Selikó stód þar hópnum hjá Horfdi' á tilbúnínginn Seka fljódid flutt var þá Fram í præla hrínginn.

58. Fylgdi veiga vænni brú Vopnadur

skari kvenda Skyldi seiga nógum nú Nauð-
um þar afhenda.

59. Selikó leit á seima bil Sjá! það
var Berissa Meyjar heita mundi til Mað-
urinn starir hissa.

60. Varstu svona trygg og trú — Talar
hann þá í hljóði — Síst er von eg sinni
nú Sóma smáu sljóði.

61. Bør þá treigja gjørði greitt Glæsta
mey að Eyja Vild' ei seigja neitt eða neitt
Nema þeigja og deyja.

62. Fundinn nauða skørpu skil Skoða
hlýtur þanninn Bundinn dauða dæmdann
til Drósin lítur manninn.

63. Innra beið með eingann skamt Ást-
in fast í skorðum Hrygg og reið til sjóla
samt Svona kastar orðum.

64. Grimmi sjóli, sjest það enn Síst
þér vekur leiða Lýkur sóli mæta menn
Mest óseka deyða.

65. „Bræðin gretta svo þér sjá Sann-
„leiks bannar skýmu Ekki er þetta seggur
„sá Sem oss fann um grímu.

66. „Slepptu agnars elda ver Orsøk
„ræðu minnar Helju fagna eg sem er Offur
„bræði þinnar.

67. „Auds hvurr baldur oss hjá var
„Ei skalt fá ad heyra Í stáls apaldur
„sendi svar Selju bráins leira.

68. „Undir bláum stjarna stól Strax þad
„sanna bæri Djarfara má ei finna fól
„Fleirst þó kannad væri.

69. „Heimsku þý á hnikars mey
„Hrekki drýir klára Svo med lýgi svífist ei
„Sekann frýa dára.

70. „Fánginn boga sveigir sig Sekann
„vidurkéndi Ligum vogar villa mig Vondsku
„snidugt kvendi.

71. „Og þú skjækjan ófarsæl Eitt þad
„líða skyldir Myrkra rækja møk vid þræl
„Mig ei þýdast vildir.

72. „Tráss ug aldrei tókstu mót Tign=
„ar blóma mínum Hugar baldin heimska
„snót Hafnadir sóma þínum.

73. „Ødling vífid ansa fer Einurd
„freka medur Ad eg lífid láti hér Lund ó=
„seka gledur.

74. „Unun hjarta nærir ný Nei þér
„kaus ad seigja Midur skartar ánaud í
„Ærulaus ad deyja.

75. „Minnst af breyti minni bygd Mig
„nær gipta þekki Ødrum heitid hefi' eg
„trygd Hjartanu skipti' eg ekki".

76. Skikkju sólin skarpsinnug Skjøldúngs nærir brædi Pad kom sjóla síst í hug Saklaus væri bædi.

77. Bøls ófrínu brjósti frá Budlúng máli ridur Keirid mínir þrælar þá Pau í bálid nidur.

78. Old ad vansa verki ber Vala skjálf og krýka Pó kom stans á hilmirs her Hann og sjálfann líka.

79. Einn hlaupandi geira grier Gamall þángad vendi Beint hvar standa bundinn sjer Beim og fángad kvendi.

80. Nauda módur náms um búr Naumla stód á beinum Rauda blódid ólgdi úr Audúns glóda skeinum.

81. Sárum bræddur flýtti før Fólks í gégnum skara Ljár sem glæddur stángi stør Stjakadi þegnum hara.

82. Preytti hvatur hlaupin hørd Hvíld=ir vill ei þiggja Uns hann flatur féll á jørd Fánganna mill' og tiggja.

83. Nær ad anda þrotnum þá Preingdu neydar hvidur Sár stynjandi svo nam tjá Sjóla reidann vidur.

84. Bót á viltu hér þú haf Heiptar flódi þínu Pessar litlu leifar af Lífi og blódi mínu.

85. Jeg er sá eini sannur að søk Søk ef mætti kalla Kalla' eg hrein til rædu røk Røk sem ættu falla.

86. Þegar dúri þjóðin frí Pénti vits í ládi Kvenna búrið eg komst í Og Berissu nádi.

87. Mín er dóttir svanni sá Saklaust offur helju Vild' eg dróttum veida frá Væna koffur selju.

88. Draums þá njórum svørtum serk Sveipadi kjalars brúdi Utaf ljóra ljóna kverk Leidd' eg sjala þrúdi.

89. En þó stillt með ótta kjør Áfram reyndum lædast Vaktin grilti slótta før Fram í leyndum slædast.

90. Ferdin á var ýtum bráð Að oss hrínginn gjørdu Gátu frá mér nettri nád Nadurs bíngja jørdu.

91. Beigdu fjendur bundið fljóð Bøls var frestur seldur Got ei hendur øldin óð Á mér fest að heldur.

92. Hugar þrek með hlaup ósmá Herdt' eg føllum þeiginn Um mig léku løndúngs þá Logar øllu meiginn.

93. Ei með þessu þræla pakk Þá í grøs mig feldi Hagla skéssur fór' á flakk Frisúð' úr nøsum eldi.

94. Þeßi fjanda sløgd ómjúk Fúlum anda spúdu Hjørs í bland og hagla fjúk Hreisid andar gnúdu.

95. Þó nídíngum nádi'g frá Nærri sprúnginn brotinn Hlaupa þíngum hradur á Høggvinn stúnginn skotinn.

96. Ferleg svæla faldi sýn Fætur all=vel dugdu Loksins þrælar mistu mín Mig þeir fallinn hugdu.

97. Morgun gjæjum eg var á Ad því hlera skyldi Hvad vid lægis ljósa gná Lýdir géra vildi.

98. Vísir skil um vopna þíng Vøku þjódin géri Vitni til ad satt eg sýng Sár mín blódug veri.

99. Bóka þundur þagnar hradt Þó med hyggju ríka Margir fundu' hann segdi satt Sjálfur tiggi líka.

100. Stygdin aungvum of ódæl Orkar hrygdir ríra Tygd er laungum sigursæl Sem ad dygdir stýra.

Fyrst lýsir mannsaungurinn þánka historíunnar, þar næst erindi þeirra tveggja gydjanna Venusar og Bellónu, sem gétur um í þridja mannsaung, sem er Mítologiskt býlæti, til ad sá samheingi beggja æsintýranna.

Rýman lýsir ólíklegustu nád og mildi Dahómais kóngs, vid Selíkó og Berissu, samt þeirra lukku og farsæld,

## Fimta Ríma.

Æskan mín var ástargjørn Ad því megid hlægja Þá var jeg eins og ønnur børn Enn er eg barn og jæja.

2. Samt ei gét eg sagt af mér So þad neinum dugi Rétt og satt hvad ástin er A sexunda tugi.

3. Þar um seigja þó eg eitt Þori nokkurn veginn Hún er mønnum misjøfn veitt Misjafnt líka þeigin.

4. Hún er blønduð háskasemd Hún opt meingi skadar Hún eptir því hlýtur fremd Hvar hún nemur stadar.

5. Sumir hafa elskad aud Adrir brýkur kraga Nokkrir hesta, hús og saud Hinir vín og maga.

6. Æsin mun þeim ala hrygd Ást er nid-

ur setur Þar sem eingin edla dygd Er eda feingist gétur.

7. Ærid mjøg þeim illa fer Ást er binda kéri Vid þad sem ad alltíd er Eins og bodi' á skéri.

8. Dygdin síst í basli brást Brixla dylur víti Þad er víst ad ærleg ást Alltíd hilur lýti.

9. Dygdug ást er æ þess kyns — Ef hana rétt þú metur — Ad í varg = ham hat=ursins Hún ei smogid gétur.

10. Þín ef ástin þeim ad snýst Þig frá rósemd beigir Hættu strax enn hata síst Hér eru milli veigir.

11. Þó ad ást þú aptrir þér Ørgu skapi sýna Verma' í barmi orminn er Annad enn merja' og pína.

12. Kjærleiks feta feril hér Fyrir ótal glep=ur Tortrygnin þad eitur er Ástir mest sem drepur.

13. Margra vill í meining slást Mest þar íllt af standi Ad dúka sóla dygdug ást Dag=lega sé þverrandi.

14. Samt þó meiníng sú ósín Sé á veigi hálum Skautafalda ljóst er lín Lýst í Háa=málum.

15. Ástir, trygd og ódygd stríd Og allt sem

kénnst' á berid Atli þad haf' ei alla tíd Err=id svipad verid.

16. Þad er líka meiníng mín Mærdar hér í klausu Ad hverr einn losi hýru sín Hinum ad þakkarlausu.

17. Pýramus og Tíspu trygd Traudt á maka vída Þar var ást í þánka bygd Þad sá Venus blída.

18. Mátt' ei trygda munstur slíkt Meingi lingur þjóna Og auka kinid ásta=ríkt Um þad sá Bellóna.

19. Sorg og ástum samfara Svaradi hel=jan bráda Því hin mæta Minerva Mátt' ei neinu ráda.

20. Þá nú sá ad sona fór Sem ei vil=jad hafdi Minerva til maktar stór Med sér Venu krafdi.

21. Parnass hærstur hnjúkum ná Hrundir frænings bóla So þar bádar settust á Sína veldiss stóla.

22. Guda dóma tignar tal Tóku sídan ala Venus blída hóf því hjal Hrund vid orma dala.

23. „Tíspe og Pýrams tapid lér Trega „veldi þinu Skadi viss þad ordin er Ásta ríki „mínu.

24. „Trega víst eg aldrei ann Ad þar dómi „snúum Skildt er ad bæta skada þann Skøpud=„um jardar búum.

25. „Minerva svo máls af bygd Midlar „svørum vøndum Skynsøm ást og djúpsett dygd „Dilst á Blálands strøndum.

26. „Vinur minn er þekktur þér Þar ad „heidnum rómi Vitsku' og dygd sá vafinn er „Vinnur ad helgidómi.

27. „Eina dóttur á hann sér Ærid dygda „ríka Hún er trygg svo heimur ber Hennar „fáa líka.

28. „Hún sér einn til ásta kaus Eydir „ljósa hranna Sá er madur makalaus Munu „þad dæmin sanna.

29. „Hann med ást og hreinnri trygd Hlýt=„ur stórt ad vinna Hann er gjæddur hárri „dygd Hann er edalsinna.

30. „Selikó um sagna tún Sveinninn kinn=„ist fridur Enn Berissa heitir hún Honum „engu sidur.

31. „Almakt þín ef trygda=taug Teingir „hal og svanna Dygda munstur munu þau Med=„al heims búanna.

32. „Enn so dygda dæmin stór Dreifist med=„al sjóta Menja=brík og málma=þór Mikid „reynast hljóta.

33. „Mjøg aflraunir margar Sveins Mann=
„dóms þrekid herda Reynast hlýtur ástin eins
„Ef ad dygd skal verda.

34. „Ad só þreyngir þrauta : kýf Porna=
„týr og svanna Nærri missa munu líf Mest
„fyrir einu týranna.

35. „Meira þó til meinbuga Mótlæti þeim
„flitur Blódug hærda Bellóna Beggja líf
„umsitur.

36. „Enn til líknar þeim skal þá Penna
„dóm á leggja Fortúna mín annast á Ást og
„lífid beggja.

37. „Bondum skal og hilmir hjá Heipt í
„mildi snúast Peim so verdi þar í frá Pad
„til happa trúast".

38. Heimsins þjódum þeinkja ber Pad og
dæmin sanna Gudinn hafa' í hendi sér Hjørtu
týrananna.

39. Voldug hæda vísa : blóm Vitnudu einni
túngu Búum jardar birtu dóm Bjanak yfir
súngu

40. Petta litla þjód eg bid Pánka fóst=
ur hyrdi Minn so hætti mansaung vid Mein=
laus gaman yrdi.

---

41. Næsta Ríma rædu spjøll Reyndi þar sem hari Prestsins grundar ordin øll Ei þó hreisdi svari.

42. Hilmir stód í þaunkum þó Þætti trúleg saga Samt vid bundinn Selikó Svo nam rædu laga.

43. Seig oss madur! hvad þig hér Hvatti svo til nauda Saklaus kaupa kaustu þér Kvalafullann dauda?

44. Einardlega bauga bør Budlúng svarid valdi Øll sín rauna køldu kjør Klárt og rétt framtaldi.

45. Einkum þad síg ástar bønd Unn-ustunnar særdi Medan vissi ei hvurt ønd Ømdin bauga hrærdi.

46. Brædra minna' og módur naud Mér svo gékk til hjarta Líf mitt fyrir láta braud Leitst mér allvel skarta.

47. Furdadi margann fleins á rjód Fleigir þundar bríma Sem høggdofa hilm-ir stód Hissa lángan tíma.

48. Loksins eptir liðna stund — Lostinn hyrjar anda — Kóngur á sinn kallar fund Kaupmenn norðurlanda.

49. „Pið eruð kjænir hvítu menn — „kvað þá stjóri fyrða — Hvurn þann hlut „sem er til enn Uppá hár að vyrða.

50. „Mest um varða þykir þó Pað oss „nokkur seigi Rétt og satt hvað Selikó „sjálfur kosta meigi.

51. Ita svørum á var stans Aungvir skilið gátu Hvar til vildi vísir lands Vyrða reynir plátu.

52. Einurðar sá ei fékk mist Wrið gáfna hraður Pá nam svara fylkir fyrst Fransk= ur eðalmaður.

53. „Met eg bundinn bøls á stund Bar= in nauða sulli Tíu hundruð laufa lund Lóð af rauða gulli.

54. Litið sparði leiptur fjór Leitst hon= um dável á 'ann Bauð því til að hljóta hrós Hélt að mundi fá hann.

55. Þó menn brúki brellur hér Og beiti jøtna tónum Einginn dregur þó atli sér Annars fisk úr sjónum.

56. „Madurinn tæpast mildíng tér Met-„inn enn er hálfur Summu þessa því af „mér Pyggja skal hann sjálfur.

57. „Þad er lítid þennann mann Þó „ad gjøfum sæmi Berissu skal hljóta hann „Hvurt eg ødru dæmi.

58. „Burt svo tárin ángurs øll Af þeim hverfa meigi Brullaup þeirra heim í høll „Held eg á þessum deigi.

59. „Vesælínga þessa þrjá Prikkta rauna „fargi Leidid mínum fótum frá Framm ad „ljóra vargi".

60. Ita margra gladdi géd Gløtun sorg-arinnar Hilmir gékk og hyrdin med Heim til borgarinnar.

61. Selikó og refla rist Reifadi fleirst medlæti Feingu nú ad lifa list Leidd í veg-leg sæti.

62. Sjóli stefna saman réd Sínum vildar mønnum Blikudu tjøld og bekkir med Brimadi vín á kønnum.

63. Selikó og bauga brú Bendlud ástar þrædi Uppá serkja sid og trú Saman vígdust bædi.

64. Lét ei skorta lýdi þar Lofdúng neitt sem gledur Svo ad nýu veitslan var Byrdíng aukin medur.

65. Sjóli brædur sækja lét Selikós eptir vilja' Kérlíng vid sitt karar flet Kaus þá líka skilja.

66. Fagnadar svo fundur stór Fljótt af létti naudum Eins og gjæfist álma þór Upprisinn frá daudum.

67. Veitt af kappi vísir lét Vyrdar gladir sátu Hermt þó síst í hródri gét Hvad þeir drukku' og átu.

68. Þó skal láta ljóda spjall Lýsa veitslu fréttum Horna sjáar Bylgjan ball Bragna máls á klettum.

69. Góma hylur hardt inn sog Hrønn svo margri greiddi Þadan inná vambar vog Warma skúmid freiddi.

70. Margur drakk þar mjadar staup Margur saung þar gladur Margur bikar margann saup Margur sat ølvadur.

71. Vard nú sumum heilinn hjá Hita dampa kraminn Adrir stømpum steiptu þá Stuttur er brullaups framinn.

72. Þegar vedur villu reyk Vit hjá hal og sprundi Best er ad hætta hverjum leik Hærst þá stíginn mundi.

73. Stillt er skárst ad geyma géd Glaumi frá þó snúir Huxadu aldrei hérna med Heiløgum Einglum búir.

74. Láti hér vid hvur annan Hár á kollum rísa Þess má géta vísir vann Weitslu þrotum lýsa.

75. Sjóli skeinkti Selikó Summu firri tjáda Sídan skyldi' hann sæll í ró Sínum kjørum ráda.

76. Hús' og akri auds er þøll Atti dygda fjáda Selikó skyldi' og ætt hans øll Æfinlega ráda.

77. Merkin geymi minnis høll Mildi kóngs og dáda Roti svo í nádum øll Nægtir kraka sáda.

78. Aldrei hreppti ásta spjøll Ættin dygda fjáda Uns þau bana bylgjan øll Bar til fridar láda.

79. 'Nú er saga þessi þjód Prædi mærdar glitud Af hálærdum letra bjód Leingri var ei ritud.

80. Sóma dæmi sýnir bjart Sagan prýdi vøndud Þar er dygdug ástar-art Edalsinni blønduð.

81. Mótlætinga menn um hraun Mjøg þó forløg hrýsi Dygdin er sín eigin laun Enda' í þessu lífi.

82. Mótlætis á medan þér Mjøg er vegur strídur Utfallid þú aldrei sjer Eilíf forløg sídur.

83. Oss þó hreki heims um bý Hagur=inn rauna skjædur Stilltu géd og gjæt ad því Gud er sá sem rædur.

84. Þó framar gángi mót enn med Mannlega strídid heyjum Von og trúin gledji géd Gódan endir þreyjum.

85. O þann føgnud, ógéds tíd Endir gódann hljóti O! þad hnoss vid endad stríd Eilífs fridar njóti.

86. Best er ad skilja vondsku vid Ven=jast dygda safni Stunda kлárann kjærleiks sid Kristindóms í nafni.

87. Umvendun og ydrun sín Undan má ei dragast Eingin veit nær æsin dvín Adur þarf ad lagast.

88. Hvad sem hefur upphaf átt End=ir finna hlítur Allt eins ljóda þennann þátt Þagnar megnid slítur.

89. Frá þeim undrum oss í heim Ords=ins holdgan prísum Atján hundrud tvenn=um tveim Tugum ára lýsum.

90. Sá er ljóð ólidüg spann Lista sneiddur geingi Sitt og føðurs heiti hann Hermir sona meingi.

91. Jel, blóm akra, bilgjur tvær Bólgu grafin túnga Mæðist jór þar maður hlær, Mugga', reiðin þúnga.

92. Føður nafnið fyrða stór Flokkur má so grunda Svelka løg og svana kór Seinleg fæðing sprunda.

93. Kjalars Julu hró i hró Hér á lúið skríða Dvalar hulið mó i mó Minnis, fúið bíða.

